Syndugu satu j Dome/og Drottenn Himens og Jardar hlaut ad standa framme fyrer þeim/ Og Spekenn sialf hlaut ad riettlætast af sijnum Sonum. Mat. 11.

Eñ þu Drotten minn Jesu/ sem ei langar til neins Mans Glótũar/Hyriader enn þa jdrunar Predikun fyrer þeim/ j huórre þu avijsader þeim/ad þeir være so forherter j sijnum Asetninge/ ad ei mũde hier tia/ad seigia þiñ eda spyria þa margs/Og eñ þo þeir framfylgde Blindleik sijns Hiarta/ og tæke af hier Lijfed/ þa munder þu samt j giegnum Daudan jñganga j þijna Dyrd/ og einn Herra + Kongur yfer þiñe Christne vera/ Þa munde og þad auglioſt verda fyrer þeirra Augum huad þeir nu giórde/og ad sijdustu fyrer þeim vitnader þu/ ad þu værer ecke einsamall Madur/ helldur eilijfur sañ lifande Guds Son.

Sia hier/mijn Sal/þa hrædeliga Villu og Blindleik Gydingaña/og huórsu þeir læta slijka Jatning Christi sier ecke til Hiarta ganga. Þeir vissu vel ad Christus ætte ad koma j Heimen/+ hófdu leinge vænt epter hónum/ og þeirra Forfedur. Eñ nu sem þeir hielldu a hó- Esa 35.

num / villdu þeir ecke trua hönum nie
hans Jatningu / helldur dæma þeir hañ
til Dauda / þess vegna / ad hañ medkieñ
Dan 9. er sig ad vera Christum. Eñ þad var so
fyrerspad / ad Christr skyllde vpprætast·
Ja / þad var og skrifad ad hañ skyllde
giefa sinn Lijkama til Synda Offurs / +
verda burt sliten af Lande lifande Man
na / og verda pijndur venga Synda sijns
Folks..

Þar fyrer ertu Drotten / mitt stad-
fast Traust / Von mijn + Sæluhialp / Þui
eckert Nafn er Mönnunum giefed annad /
Act 4. j huöriu vier holpner verdũ / vtan þitt
13. sæta Nafn o Jesu. Og þo þitt eiged
Folk hafe vanrækt og foraktad þig / þa
ertu nu oss Heidingium giefen / til ad lysa
vorum Sælum / ad þu siert vort Hialp-
Esa. rad allt til Heimsins enda. Þijn Pijna
49. vtuegar mier eilijfa Glede. Þitt Doms
afelle veiter mier eilijfa Endurlausn. Þiñ
Dande giefur mier eilijft Lijf.

Þu ert Christr sa smurde Drottins /
og liest þig j þui Nafne til Dauda dæ-
ma / Veit mier / ad Sæl mijn vite + vid-
urkienne / þad þu ert þad einka lijknar
Offur + Forlijkun fyrer mijnar Synder.

Þu ert Drotten Himens og Jardar/ + liest þig þo til Dauda dæma/ Hialpa mine Salu so ad hun stadfastlega true/ ad enn þijn og fyrer vtan þig/ er eingen Hialp/ huorke a Himne nie a Jordu.

Þu ert eilijfur Guds Sonur/ + hefur teked a þig mitt Holld og Blod/ og j þui Nafne lætr þu giefa þig Daudann j Valld/ Gief þu ad Sal mijn lære og true/ ad alleina vegna þijns ærnadar Ords og Forþienustu verd eg og blijfe Guds Barn ad eilijfu Amen.

### Judas skilar aptur þeim þriatige Silfurpeningum/ + őruilnadest j synum Syndum. II

AF Forrædaranum Judas skallt tu hier merkia/ mijn Sal/ ad þr fals Suikarar og Blodgyrugu/ Psa 1
komast ecke a mitt Skeid sina Lijfdaga/ Þuiad Judas do j synum Syndum/ Matt
so sem Drotten hafde sagt hőnum/ 26.
Vei þeim Manne sem forrædur Mannsins Son/ þarfara være þm Manne/ ad hann være alldrei fæddur.

En þu/ Sal mijn/ þo þu kunner ad falla j nockra Synd/ þa őruilnast ecke

so sem Judas/ og ei skalltu seigia sem
Gen 4. Cain/ Mijn Synd er stærre eñ hun verde
fyrergiefen. Þad lo Cain/ Þuiad Guds
myskū er meire eñ allar heimsins Synder

Þad var ad vijsu/ Sæl mijn/ stor
Synd/ ad Judas sellde so sinn Lavard &
sveik siñ Herra/ og þad var stor Synd/
þa Cain j Hel slo siñ Broder Abel/ eñ su
var Synden langt vm meire/ ad þeir ör-
væntu sier Guds Nadar. Þui þo vier
1 Joh. 2. syndgum/ þa höfum vier eiñ Tulk & ær-
nadar Mañ hia Födurnum/ Jesū Chri-
stum hiñ Riettlata/ sa sem er Forlijkun
fyrer vorar Synder.

Eñ Judas villde Bölvanena hafa/
Psal. 109. og þui er hun yfer hañ komen/ Blessū-
ena villde hañ ecke/ þui er hun langt fra
hönum. Bölvaneñe jklæddest hñ sem öd-
ru hafnar Fate/ Hū er vt j hñ ruñeñ siñ
Vatn/ og j hans Bein sem Vidsmiör/
Hun er hönum sem añar Kyrtell/ og sem
eitt Bellte þad hñ bindur vm sig. Slijkt
fa þeir af Drottne/ sem hñ hafa ecke fy-
rer Augum.

Enn þa sem Gud hafa sier fyrer
Psa 14. Augum blessar hañ/ bæde sma og stora:
Drotten blesse þig æ meir og meir/ mijn
Sæl

...ℓal/ Drotten blesse þig og vardveite
...ig/ Drotten late sijna Asiónu lysa yfer
...ig/ og sie þier myskunsamur/ Drotten
...nue sijnu milldo Auglite til þijn/ og
...iefe þier Frid/ So skiedr þa sem Drott-
...n ottast/ og hann fyrer Augum hafa.

## Þeir færdu Jesum bunden fyrer Lands Domaran hann Heidna Pilatum. III.

SEm Afellisdomuren var nu geingen/ ad hann være Dauda verdugur/ stodu þeir vpp og færdu hann Pilato. Þu ert sa riette Samson/ Drotten/ sem hans Folk batt/ og Philisteis j Hendur selldo. Jud. 15

Enn þu Herra Jesu varst selldr minna Synda vegna/ so eg kuittur yrde fra Dióflenum/ þu varst bunden/ mier til Lausnar/ j Syndugra Omilldum Hondum/ so eg komest j þijns Himnesska Faudurs Hendur.

Herra Himneske fader/ gack ecke j Dom med mig vm mijnar Synder/ þui þinn Sonur minn Lausnare gieck vnder Dom þrra Syndugu minna vegna. Snu þijnu Auglite til mijn/ og seig mig lausan

125b an vid þan̄ eilijfa ſtranga Dom/ vegna þeſſa eilijfa einka Medalgangara vors Herra Jeſu Christi Amen.

## IIII. Vm Phariſeanna Hræſne.

ENN Phariſearner villdu ecke ganga in̄ j Þinghwſid/ſo þr ſaur gudust ecke. So blinder voru þeir Darar/og ſo darlega voru þeir blinder. Þeir hlijfduſt vid ad koma inn j þ Heidna Þinghws Pilati/ ſo þeir ecke ohreiner yrde. En̄ þann Riettlata til Dauda ad fordæma/þar hlijfduſt þr ecke vid/ og þeſſ ſköm̄uduſt þeir ſijn ecke. Þeir voru lijka oradner j þui/ ad leggia þa þriatige Silfur peningia j Guds Kiſtu/ ſem Judas ſkilade aptur/ En̄ ad rada af Dögum þann ſaklauſa/hikudu þeir ecke vid. Þannenn ſijudu þeir Myflug-
Mat. una/en̄ gleyptu Ulfalldan.
23. Hialpa þu mier Drottenn/min̄ Frelſare/ fra allre Hræſne/ ad eg ecke þione
Syr 1. þier med fölſku Hiarta/ Læt mijna Sal
Mat. fraſkilda va þra Töln ſem nalgaſt þig
15. mz Munne/en̄ Hiartad er langt fra þier.
Ai in̄ Gud/ forda Sælu minne þrre von-

du

du Art/sem þikest fullhrein/en er þo øll-Proudungis oþueigen og saurug. 30.

## Þeir kløgudu Drotten fyrer Pilato sem einn Spilluirkia. V.

ENN nu søkum þess/ ad Pilatus þecker vel þeirra vana/ ad þeir ecke lietust meiga koma j Þinghwsed/ þa gieck hañ vt til þeirra/ og spurde huad þr giæfe Jesu ad sök. Eñ þeir höfdu önguа rietta Adferd Malaña j Andsuörronum helldur suara þeir Pilato wt af Forse/ og seigia/ Være hann ecke einn Jllrædis Madr/ þa mundum vier ecke hafa þier hañ j Hendur feinged.

O þier Lygarar/sem ecke kuñed ydar ad skamast/ huad falsliga kiærdu þier til mijns Lausnara. Huada Jllræde hafde hañ þa giört? Huad hafde hann þess ad hafst? Spyried þa blindu sem hañ gaf Sionena/ og læted þa herma fra. Spyried Diöfuloda sem hañ læknade. Spyried Hallta sem hñ giörde heilfætta. Spyried þa daufu sem hañ liet heyra/ þa Blindu sem hañ gaf Syn/ þa Mallausu sem hañ liet tala/ þa Vesölu sem hañ gaf Huggun/ þa Daudu sem

hañ

hañ giörde lifande. Þesser aller munu votta og seigia/ ad hñ sie Drotten Gud Esa 39 vor/ oss til Hialpar hingad komē. Hefur ecke Esaias vm hann spad/ ad hann munde Blindū giefa Syn/ Daufum Heyrn/ og ad a hans Dögum munde þeir Hölltu kuitklæter verda siñ añar Skögarhiörtur/ og Mallaus Tunga munde þa Gude Lof syngia.

O Jesu þu Riettlæte og Heilage Herra/ sem minna vegna varst fyrer Illræde klagadur/ Gief þu mier þitt Riettlæte/ og lat mig j þra tölu vera sem þu hefr af Synd + öllu illu frelsad Amen.

## VI. Huada saker þeir gafu Christo fyrer Pilato.



OG sem Pilatus liet sier ecke þeirra Reying nægia/ helldur badst epter ad meiga vita hans Dauda sök/ Sia/ þa setia þeir fram þriar Sakargipter.

1 Ad hñ sem añar Villumadur/ telde ranga Tru fyrer Folkenu.

2 Ad hann sem annar Vpphlaups Madr/ Bañade ad giefa Keisaranū skatt.

3 Ad hñ þyrde ad seigia þad/ ad hñ

være

være Kongurenñ Christus.
O þier fölsku Tungur/ og oblinger
Lygemunnar/ Nær villde hañ villa tru
fyrer Folkenu? Kieñer hñ ecke bæde Jd-
ran og Yfirboot + Syndañá fyrergief-
ning öllum riettruudum? Kiende hñ ecke Luc.
rietta Guds Gótu j Sañleikanum? og 24.
greidde ydar Fætur a Veg Fridarins. Luc 1.
Nær fyrerbaud hann Skatt ad giallda
Keisaranum? Sagde hañ ecke so vid yd Mat.
ur/ Giefed þad Keisaranum huad Keis- 22.
arans er/ og Gude huad Guds er. Og
ad hañ öngum Mañe til Hneyxlunar ed-
ur jlls Epterdæmis være/ liet hñ Petrum Mat.
giefa Skattpeningen fyrer þa bada til 17.
Capernaum. Nær synde hñ sig j þui ad
leggiast epter Verallðlegu Ryke + Kong-
legre Stiett? Hafde hañ sig icke vndan Joh 6.
+ flyde/ þa Landsfolked j Galilea vill-
de hañ til Kongs taka.

Eñ samt og ædur er hañ sañarle-
ga eiñ Kongur/ sem er sa Dyrdarennar Psa.
Kongr vm huörn skrifad er/ Fagna þu 24.
Dotter Zion/ og vertu glöd Dotter Jer- Zach.
usalem / Sia þinn Kongur kiemur til 9.
þijn/ Riettlætur og Hoguær/ Fatækur/
rijdande eine Asnu og Fola klifbærar

127b Ausnu. Þetta sæu þier Gydingar allt saman

Drotten Jesu/ Lausnare miñ/ þeir
vppluku sijnum ogudlega Muñe a mote
Psal. 109. þier/ og töludu eiturlega med sijnū föl-
skū Tungū/ ofsækiande þig an saka. Og
þo þu værer Riettlætur og einskis ills
valldur/ þagder þu þo samt/ + ansader
er þeim önguu. Þu varst sem daufur og
Psa 38. Mallaus/ sa eingen motmæle hefur j sij-
Psa 98 num Muñe.

Skoda hier/ Sæl mijn/ huörnen
þeir hafa fared med þinn Lausnara/
Merk og legg j Miñe/ ad þetta var eiñ
Speigell vm hñs Christne/ Þui aller þr
sem gudlega lifa vilia j Christo Jesu/
1 Tim. 5. hliota eirnen Offsokn + Motgang ad lij-
Mat. 10. da: Læresueiñen er ei yfer Meistara sijn-
um/ og Þionen ecke yfer sijnum Herra.
Þad ma duga/ þo Læresueiñen sie so siñ
hans Meistare/ + Þienareñ so sem hans
Herra.

Sæl mijn/ hafe Diöfullen + Heim-
ureñ ofsokt þiñ Lausnara/ þui mættu
lijka vid Ofride og Ofsokn buast.

Kom mier til hialpar/ Drotten Je-
su/ ad eg jafnan andsyne mig/ eg sie þiñ
riettur

riettur og ſañur Þion/ j Þolenmæde og allra Handa Neyd og Angiſt/ j Kroſſe og Motgange/ j Vǒkum og Fǒſtum/ j Skyrlyfe og Vidurkieñingu/ j Langlund argiede/ Hoguære/ j Heilǒgum Anda/ j ofǒlſudum Kiærleika/ j Orde Sannleikans/ j Krapte Drottins/ med Herklædum Riettlæteſins til hægre og vinſtre Handar/ j Heidre og Vanheidran/ j goodu Ryckte og Vanryckte/ ꝛc. So ſem Fatæker/ eñ þo marga audgande/ eins ꝛ Snauder/ eñ þo a ǒllu Nægd hafande/ So ſem þr ed eckert hafa eñ eignaſt þo alla Hlute. 2 Cor. 6.

Hialpa þu mier Drotten J:ſu/ ad eg avallt ſie til reidu ad lijda med þier/ ſo eg æfenlega verde j þijnu Rijke Amen. Rom

## Um þa Dyrdlegu Jatning Christi þyrer Pilato. VII

Athuga þeſſa Jatning/ Sæl mijn/ þa Pilatus ſpottade og ſpurde ad/ huǒrt hañ være Kongur Gydinga/ þa ſagde hann et leingur/ helldur ſagde/ Mitt Rijke er ecke af þeſſum Heime/ Være mitt Rijke af þeſſum Heime/ þa munde

mīdu mīner Þienar" ſtrijda fyrer mig ſo eg ecke j Hendur ſelldeſt Gydingum/ Enn nu er mitt Rijke ecke af þeſſum Heime. Og ſem Pilatus framar dar⸗adeſt ad/ og ſpurde/ Pa heyre eg þo/ ad þu þikeſt Kongur vera/ Sem villde hīn ſeigia/ Veſlings Madr/ Huada Ohamingia kom ad þier/ ad þu tæker til Bra⸗gds ad læta þig Kōgs Nafnekalla ꝛct. Pa giórde Chriſtur greinarmun a mille þeſſa Heims Kongsrijkia og ſijns Andlega Rijkis/ og ſagde/ Eg er ad ſønnu einn Kongur/ og er þar til boren/ og j Heimī komen/ ad eg vitne bere vm Sañleikan/ Huør nu er af Sannleikanum hañ heyrer mijña Rauſt.

Ad ſóñu/ Drotten miñ Jeſu/ varſtu ſa Dyrdareñar Kongur/ þo Heimureñ foraktade þig/ Þu varſt ſa Afrekſkapp⸗
Psa 24 en ſem vtſendur varſt af Gude ad hial⸗
89. pa. Þu ert ſa Vtualde Drottins/ huórn Gud hia ódrum Mónnum til Hefdar ſette/ ꝛ ſmurde/ med ſijnu Heilaga Vidſmióre. Þu ert ſa Kuiſtur Dauids/ ſem ert eiñ vel rijkiande Kongur/ gióranđe

Dom

Dom og Riettlæte a Jórdune. Jer 29
Nu þott Heimenn lyteſt ecke a þitt
Ryke/þad kiem: ſo til/ ad þad er and=
legt enn ecke veralldlegt/ Þu ſem ert vor
Kongur ſitiande til þyns Fódurs hægre
Handar j Dyrd Himnanna/ ſafnar þier
Vnderſatum j þinne chriſteligre Kirkiu
hier a Jardryke/med Orde Sannleikſins
+ vtdeller med þynn Vtuóldum Riett=
læte + Syndanna fyrergiefningu/ Heilóg=
um Anda/+ þui eilűfa Lyfe:
1 Jardneſker Kongar rykia/+ feſta ſitt
Ryke med Stryđsmagt + Mykelmenſku. Luc.
Enn þu ert Drotten Kong: Sannleikſins/ 22.
Þu ſender þitt Ord/ + ſamā kallar þitt 2 Tim.
Folk med Heilógum Herlædre/ þui þitt 1.
Ord er Sannleikuren/ og Kraptur Guds Joh 11
ſem holpna giórer þa ſem a þ trua. 17.
Rom 1.

2 Jardneſker Kongar rykia/og þrra
Gots + Gæſur eru Jardlegar + fafeing= 1 Cor.
elegar. Enn þu ert Kongur a Himnum/+ 15.
ert rykur af Sannleikanum/þeim Aumu Pſa 45.
til hialpar. Gud þinn Fader hefur þig Eſa 61.
ſent ad kienna Fauyſum/ ſundurknoſud
Hiórtu ad græda/þeim Herteknu Lauſn
og Frelſe ad boda/Nadartyd Drottins
ad kunngióra/og þann Dag Hefndar Dr=

Eph 2 ottins/öllum Sorgfullum til Huggnar.
5. Þu ert komen med Bodskap Fridarins/
og hefur elskad þijna Christne/ og þig
j Daudan giefed fyrer hana. Þu ert Upp
risan og Lijfed/ Huör a þig truer/ hañ
lifer/lyka þo hañ deyie.

3 Jardneskir Kongar rijkia/ enn þo
Joh 16 skamastund/ og eru sijnum Vndersatum
vt vm stundlegan Frid. Enn þu lætur
þijna Christne vid þessa Heims Kross +
Mat. Motgang beriast/so hun j giegnū Syn-
21. der + Anauder komest j þitt eilijfa Rijke.

4 Jardneskir Kongar rijkia/ eñ þo
Act. skama stund / og verdur burt kipt þa
14. minst varer. Eñ þitt Rijke Drotten Je-
Psa 49 su varer eilijflega.

Lofadur sie Gud Drotten og Fad-
1 pet 2 er vors Herra Jesu Christi/sem oss hef-
ur af Myrkrunum kallad j sitt dasam-
lega Lios/og til eilijfrar Dyrdar/ + hef
Col 1. ur sett oss j Rijke sijns Sonar/ hia hu-
örium vier höfum Endurlausnena j hñs
Blode/ sem er Syndaña Fyrergiefning/
+ obrigdula Von eilijfa Lijfs.

Psa 45 Drotten miñ Jesu Christe/þu Kong
ur Dyrdareñar/ sem elskar Riettlæted +
hatar Ranglæted/ Gief mier þinn Hei-
laga

laga Anda/ ad eg kun̄e hafa mig j Hofe
j þessare Verølldu/ þui eg veit ad þesse
Hieruist endast. Vn̄ þu mier/ ad eg elske 1 Cor.
Samleikan̄ + Veg Fridarins. Forda þu 7.
mier Afgudadyrkan og Lygum/ + hallt
mier j riettre Kyn̄ingu þyns Vilia. Lat
mig jafnan hlyda þynu Orde og fylgia
þin̄e Raust/ Rotfest þu j mier kroptuga
Tru þyns Nafns/ og fyll mitt Hiarta
med stødugu Von til þyn/ vm þa eilijfu
Saluhialp. Lat mig ecke vnder ganga
Ok þra Vantruudu/ so ad eg lijkest ecke 1 Cor 6
Sonum þessarar Veralldar: þui þess-
arar Veralldar vegur liggur til Heluijt-
is. Hialpa þu mier sem ert sa eilijfe
Konungur Riettlætesins/ þa mun mig
ei neitt skada. Læt mig sækia epter þui
sem þad eilijfa er/ þar þu situr til Guds Mat 6
hægre Handar/ en̄ ecke epter þui sem hier
a Jardrijke a heima: Og nær mier kan̄ Col 3.
nockud a mote ad ganga/ lat mig Hug-
hraustan̄ vera/ og vm hyxa/ ad þu yfer-
uanst Verølldena. Læt mig þui ecke Joh 16
gleyma/ ad so sem þu hlaust ad lijda/ so
hliota og þijner Limer ad lijda Mot-
gang. Lat mig og þui ecke gleyma/ Luc 24
Drotten min̄ Jesu/ ad vier erum Børn

Tob 2 Heilagra sem vonum epter ödru Lijfe/
huört þu munt giefa þeim sem þia þier
stöd ugier j Trunne standa. O Jesu þu
Psa 42 Kongur Dyrdareñar/ Huad miög þyst-
er mijna Saal epter þier/ mijnum lifanda
Gude/ Nær eg mun koma þangad/ og
skoda þitt Blessada Auglit? Amen.

## VIII. Huør christen Madur sie til reidu Daglega/ ad giöra grein a sine Truarjatningu.

Haf þad Epterdæme/ Saal mijn
Pet 3 af Drottne/ ad þu Daglega siert
til reidu ad giöra grein a þine Tru
Mat. + ad andsuara/ huör sem vill vita/ vid
10. huada Von þu lifer. Þui huör sem So-
nen medkiener fyrer Mönnunum/ þañ vill
hañ medkieña fyrer sijnū Himneska Föd-
Syr 4. ur/ Eñ huör hönum afneitar/ þeim vill
hñ afneita fyrer sijnum Himneska Föd-
ur. Halltu a Sañleikanum allt j Daud
an/ Saal mijn/ + Drotten mun fyrer þig
strijda/ Vert ecke sem þeir ed lofa myklu
Psal. med storum ordum/ eñ efna þa jlla Heit
119. en sijdan. Helldur skalltu eirnen fyrer
Kongunum ræda um Herrans Sattmal
og ecke skamast þijn. Lat mig ei ottast
þa

þa/Drotten/ſem Lÿkamanum tyna kunna/ enn ecke Salunñe / Helldur lat mig ottaſt þig/ſem Sal og Lÿkama matt j Heluijte tortyna. Mat 10.

## Sakleyſe Christi openberaſt allſtadar. IX.

HEyr til Sal mijn/ huad lioſlega vpp kom þijns Lausnara Sakleyſe. Fyrſt ſagde Suikaren Judas/ Eg hef jlla giort/ad eg ſueik ſaklauſt Blod Pilatus viſſe og vel/ad Gydingar hofdu af Hatre og Aufund griped Jeſum/ og þſſ vegna vitnade hñ vm hñs Sakleyſe j ſiñ reiſur/ og leitade miog vid ad fa hann lauſan. Herodes fann ecke neina Skulld hia honum. Vm ſijder ſende Pilati Hwsfru honum Bod + ſagde/ Faſtu ecke vid þann Riettlata/ Þui eg hefe j Dag margt lided hans vegna j Suefne.

Huad hafder þu nu giort/ þu trulynde Þion Drottins/ ad þu ſkyllder ſo fordæmdr verda? Huad hafder þu brotet/ og huor var þijn Daudaſok? Eg/ Drotten miñ/eg var Sok og Efne þijns Dauda/ eg hef þui ollad/ þijn Sar og Þijnar Akomur hef eg veitt þier/ + þij-

na Angist hef eg giórt þier med mÿnum
Syndum. Þu varst þÿns Födurs einka
Mát 3. Sonur/ a hvórium hann alla þocknan
hafde/ þui kunne eingen þier vm neina
Synd ad kieña/ Aunguum hafder þu illt
Joh 8. giórt/ eingen Flærd var funden j þÿnum
Muñe/ samt + ædur hefur þu þÿnst fyr-
Esa 35 er oss Synduga/ og ert orden Bólvan
Gal 3. fyrer oss/ so þu leyster oss af Lógmals
sins Bólvan.

Heyr þu saklauſa Lamb Guds/
Joh 1. sem allar Heimsins Synder barst a þÿn-
um Herdum/ Lat mig alldrei órvilnast
j mÿnum Syndum/ Lat mig lifa + dey-
ja j þeirre Huggan/ad allar mÿnar Syn-
der sieu med þiñe saklausu Pÿnu bættar
og bitaladar/ og allt þad mig vantar
hafer þu med þÿnum Dauda mier wt-
vegad/ Amen.

## Fimtande Capitule.

Hvørsu ad Barrabas Mordingen fieck Lÿf/ eñ Christus var Hwdstryktur/ hæddur/ og til Dauda dæmdur.

A Natÿd-

ANatijdeñe var Landsdómareñ vanur ad giefa Folkenu eiñ Fanga lausañ þann sem þeir vm bæde. Eñ hañ hafde j þad siñ eiñ Fanga sem mæg var Nafnkiendur/ ad hann være Illrædis madur z Mordinge/ sa hiet Barrabas/ sm̄ fyrer Vpphlaup var fangadur/ huer ad j sama Vpphlaupe er j Stadnum var skied hafde Mȧns Bane orded. Og Folked gieck vpp/ og bad ad Pilatus giørde sem hañ var vanur. Og þa þeir voru saman komner/ sagde Pilatus til þeirra/ Þier hafed til Sids ad eg giefe ydr eiñ Fanga lausañ/ Huorn vilie þier nu lausan hafa/ Barrabam eda Jesum þñ Kōg Gydinga er kallast Christus? Þui hañ visse vel ad Kieñemaña Høfdingiarner høfdu af Ofūd ofurselt hñ.

Og sem Pilatus sat nu a Domstolnum/ sende hans Hwsfru til hans/ z liet seigia honū/ Hafdu ecke par ad giøra med þañ hiñ Riettlata/ þui eg hefe j

Dag margt lided j Suefne hn̄s vegna. Eñ Kieñemaña Høfdingiarner og Ølldūgarner tøludu vm fyrer Folkenu og eggiudu þad til/ ad þad ſkyllde bidia vm Barrabam/ eñ Lijflata Jeſum. Þa andſuarade Landsdomaren/ ꝛ ſagde vid þa/ Huorn vilie þier ad eg lauſan giefe af þeſſum tueimur? Þa hropade allur Lyduren/ og ſagde/ Burt med þeñañ/ ꝛ gief oſſ Barrabam lauſan. Þa kallade Pilatus enn aptur til þeirra/ viliande lata Jeſum lauſan/ ꝛ ſagde/ Huad ſkal eg þa giøra af Jeſu ſm̄ nefneſt Chriſt-us? Enn þeir hropudu aptur/ Kroſſ-feſtu hn̄/ Kroſſfeſtu hañ. Þa ſagde hn̄ j þridia ſiñ til þra/ Huad illt hefur hañ giørt? Eg ſiñ ongua Daudaſøk med hønum/ Þui vil eg lata reſſa hønum ꝛ giefa hañ ſo lauſann. Eñ þeir hropudu þeſſ meir/ Kroſſfeſtu hañ. Og þeir løg-du ad hønum med myklu Kalle / ad hañ yrde kroſſfeſtr/ Og þeirra Hliod ꝛ Kieñ-emaña Høfdingiaña toku yfer.

Þa



Þa tok Pilatus Jesum z Hwdstrykte han. Eñ Striÿdsmeñ Landsdomarans foru med hann jnn j Þinghwsed/ R v.

1336 kølludu ſaman allan Flock Pienarañа/ afklæddu hañ og løgdu yfer hañ Purpura Kyrtel/ ꝛ flietudu Koronu af Pyrnum og ſettu a hans Høfud/ ꝛ ſettu eiñ Reyrlegg j hans hægre Hønd / bugtudu ſig fyrer hønum / og ſpottudu hann ſeigande/ Heill vertu Kongur Gydinga. Og þeir ſlou j hans Andlit/ hræktu a hañ/ toku Reyrleggen ꝛ ſlou hans Høfud med/ ſiellu a Knie og ſpottudu hañ ꝛ lietuſt tilbidia hañ.

Pa gieck Pilatus wt til þeirra aptur og ſagde/ Siaed/ eg hef hañ vt aptur til ydar/ ſo þier vited ad eg fiñ ongua Søk med hønum. So kom Jeſus wt/ berande Pyrnekoronu og Purpura Kyrtelen. Pilatus ſagde vid þa/ Siaed Manneñ.

Eñ þa Kieñemaña Høfdingiar og Hra Pienarar ſau hñ/ hropudu þeir ꝛ ſøgdu/ Kroſſfeſtu/ Kroſſfeſtu hañ. Pilatus ſagde til þeirra/ Take þier hañ ꝛ kroſſfeſted/ þui eg fiñ ongua Søk med høn-

hønum. Gydingar suorudu hønum/ Vier høfum Løgmaal/ og epter voru Løgmaale skal hañ deyia/ þui hañ hefur sig sialfañ ad Guds Syne giort.

Þa Pilatus heyrde þad Ord/ vard hañ hræddur/ og gieck jñ aptur j Þinghwsed/ z sagde vid Jesum/ Huadan ertu? Og Jesus ansade hønum ønguu. Þa sagde Pilatus/ Villtu ecke tala vid mig/ Veistu ecke ad eg hefe Magt til ad krossfesta þig/ z Magt ad giefa þig lausan? Jesus suarade/ Þu hefz øngua Magt yfer mier/ nema þier være giefen hun hier ofan ad/ Þui hafa þeir meire Synd sem mig hafa þier j Hend ur sellt. Og vpp fra þui leitade Pilatus vid ad lata hañ lausan. Eñ Gydingarner kolludu og søgdu/ Later þu hñ lausan/ þa ertu ecke vinur Keisarans/ Þui huer sig ad Konge giører/ hañ er j mote Keisaranum.

Þa Pilatus heyrde þad Ord/leidde hañ Jesum vt/settest a Domstol j þeim

Stad

Stad sem nefndest Hafeslotur / a Hebreska Tungu Gabbata. Enn þad var Affanga dagur Paska nær siøttu Stund. Og hañ sagde til Gydingaña / Sia þetta er ydar Kongur. Eñ þr kølludu / Burt / burt med hañ / Krossfestu hann. Pilatus sagde / skal eg krossfesta yduarn Konung? Kiennemaña Høfdingiarner suorudu / Vier høfum ønguan Kong nema Keisarañ.

Þa nu Pilatus sa / hañ kom ønguu til leidar / helldur munde þar verda af meira Vpphlaup / syndest hønū þad af ad giøra Folksins Vilia / og dæmde ad þeirra Bon skyllde skie / tok Vatn ꝛ þuo de siñar Hendur þar fyrer Folkenu / og sagde / Eg er saklaus j Blode þess hins Riettlata / siae þier þar fyrer. Þa suarade allt Folkid og sagde / Hans Blod kome yfer oss ꝛ vora Nidia.

Þa gaf hañ þeim Barrabam lausan / sem fyrer Vpphlaup og Mañdrap var fangen / vm huørn þeir badu / enn

Jesum



Jesum hæddan og Hwdstryktan feck hũ̃ þeim j Hendur/ epter þeirra Vilia/ so ad hann være Krossfestur.

# Eintaled.

## I. Gydingar afsøgdu Jesum/ enn bædu vm Barrabam.

HUgleid hier fyrst mijn Sal/ huernen þeir Gydingar afsøgdu þann
Act 3. heilaga og Riettferduga/ og bædu vm Barrabam/ ad hañ mætte laus verda/ enn Hófdingia Lijfsins Lijflietu þeir. Pilatus visse ad Jesus var saklaus/ og þar fyrer leitade hañ vid ad lata hann lausan. Og med þui hans Vane var/ad giefa þeim eiñ Fanga lausan/ þa lætur hann þa ecke vm fleire eiga ad velia/ eñ vm Jesum og þann Mañdrapara og Illradis Mañ Barrabam. Meinande ad þeir munde helldr vilia ad sa Meinlause Jesus af Nazareth være giefen laus/eñ hiñ vonde Mordinge/ epter huórs Dauda alla adra langade. Eñ þeirra Hiórtu voru so beisk + gróm/ ad þeir hefdu fyrr óllū Strakum + Mordingium hlyft/ helldr eñ Þr hefde læted Jesū þañ Riettlata lausan. Þui hropudu þeir so/ Burt/burt med þeñañ/og gief oss Barrabam lausan:

Eñ

Enn mijn Sæl / þetta er ecke skied forgiefens / helldur þier til Huggunar. Þui Mordingen Barrabas merker Ad-am / ꝛ alla hans Nidia / J han̄ mata / Ad so sem Barrabas vegna sijns Mor-ds og jllra Verka / hafde Daudan for-þient / So hafde Adam fyrer sig og sij-na Nidia / eilijfan Dauda og Fordæm-ning forþienad. Enn Mordingen ꝛ A-dam med sijnum Nidium þar vrdu frij og frialser / enn sa Meinlause Christur
hlaut ad deyia / Þuiad so sem aller j A- 1 Cor.
dam dou / so verda allerj Christo lifāde. 15.

Þar fyrer mijn̄ Herra Jesu / þo eg sie einn af þeim stærstu Syndörum / þa vil eg samt ecke örvænta mier Myskun-
ar / Þui eg veit þad / huar mijn Synd er Rom 5.
mégtug orden / þar er þijn Nad langt vm megtugre / Og huör sa sem örulu-ast j sijnum Syndum / sa neitar þui ad þu sert Nadugur. Nu kann ecke meire Gudlöstū ad vera helldr en su / nær Ma-dur efast ꝛ örvænter sier Guds Nadar / sa same seiger nei vid Guds Myskun / Sannleika og Almætte / huar vppa eg set alla mijna Von. A hans Nad vona eg þui eg veit ad j hönum hefe eg Guds

Bar-

Barna Nad ódlast. A hans Sannleika vona eg/ þui eg veit ad hans Fyrerheit munu alldrei liuga ad mier· A hans Almætte vona eg/ þui eg veit ad min̄ þesse Lausnare er Almattugr ad hialpa mier af Syndeñe ⁊ allskonar Neyd. Nu þott mitt eiged Hiarta vilie mögla a mote mier og seigia/ Huór ertu þess/ þijn auma Mañeskia/ ad þu meiger þier slijkrar Hialpar vona? Huad kantu til heñar ad viña? Þa andsuara eg hreystelega og seige/ Eg veit a huórn eg true/ hann same hefur sig j Daudan fyrer mig giefed/ og mier med sinne Upprisu eilijft Riettlæte ⁊ Lijf afrekad. Þessu hefur þu mier Drotten min̄ Jesu heited/ þar fyrer muntu þad eirnen hallda/ þui þu ert Bæde sañordur ⁊ almattugur Amen.

## Sa Saklause Christus/verdur Hudstryktur sem Spilluirke.

I. Þessu næst liet Pilatus Hudstrykia Jesum/ og hugdest þar med ad stilla Gydingaña Grimd/ hñ meinte ad þeir munde þa aumka sig yfer hiñ·

Strax sem hañ veit j þeñañ Veigen vid Strijdsmeñena/ þeir jafnskiott gripu

grípu Jesum / flettu hañ sijnum Klædum / Bundu hñ og Hwdflettu hañ. Enn Psa 40 þad saklausa Lamb var syns Himneska Födurs Vilia hlyded / villde öngun þßsu j mote briotast / liet þa fara med sig sem þeir villdu.

O mijn Sæl / huad hrædelega hafa þeir vtleiked þim Lausnara / Eingen Limur var heill a hñs Lijkama / so hafa þeir med Vöndum og Suipum hans saklausa Lijkama sært og lemstrad / ad eingen Dijle var heill a hñs Hwd. Awui Sa sem allre Veröllduñe Nyskū veiter / hañ fieck ecke hiñ minsta vægdar Dropa edur Lijnkind hia þessum Buölörum. Awuij Sæl mijn / Veina + grat yfer þijnum Syndum / med huörium þu hafder forþient þa eilijfu Hwdstroku j Heluijte og Fordæminguñe / Og grat yfer þijnum Misgiördum sem til eilijfra Kuala hafa viñed. Eñ þu miñ Lausnare liest þig j miñ stad Hwdstrykia / og frelsader mig so fra Andskotans Vende.

Drotten miñ Jesus / sem so varst fyrer mijnar Synder særdur + blodgadur / Esa 53. Lækna þu Sær miñar syndugu Samuisku / med þijnum Vndum / og græd þu

mitt alsæra Hiarta med þijnum Blodlækium og Benium Amen.

## III. Ecce Homo. Sia þu huad særlega Lausnaren var til reika.

NU sem Jesus var so aumlega vtleiken/ hwdstryktur/ baren/ lamen/ særdur/ og allur Blodrisa/ þa tok Pilatus hañ/ + leidde hañ wt mz sier wr Þinghwsenu/ ætlande ad þa þeir Gydingar sæe huörsu illa hñ var vtleiken/ þa mundu þeir aumka sig yfer hönum/ og lata hañ verda lausan. Og þui sagde hañ so/ Siaed Mannen/ Eg hefe giefed hönũ Rædning/ heimted ecke meira/ lated þetta nægia. Eñ þeir Gydingar villdu ecke lijta til Jesum/ sneru sier vndan/ Kölludu og sögdu/ Burt/ burt med hann.

Eñ þu mijn Sal/ giör ecke so/ helldur haf þijn Augu a Lausnaranum med jafnade/ + skeika ecke. Sia og hura vm huad Blodrisa hañ var/ Sia huörnen Blodet lagade vt/ rañ ofan epter hans
an 5. Lijkama. Nu kant þu ecke ad seigia/ Mijn Vin er Biartur/ + riodur/ vtualen/ af mörgum Þusundum/ Helldr so/ Mijn

Vin

Þijt er Blar og Blodugur.

O Jesu Christe þu allra Friijdaste medal Mañaña sona/ Huar var nu þijn Fegurd og Pryde? Huad sargræteleg a varstu vtleiken? huad osynelegur varstu þa orden/ huad sundur kramen + maren var þiñ Heilage Lijkame?

O Drotten Jesu Christe/ huad skal eg giöra? Huörnen skal eg mijna Hiartans Hrygd stilla? Eg vil taka allar mijnar Synder/ + allan Ohreinleika + kasta þeim j þijnar Heilögu Vnder og j þijn Sar/ sem þier mijna vegna giörd hafa vered. Þeim vil eg söckua nidur j þijnar Vnder/ so þær verde alldrei mijnt fra mar meir. Drotten miñ/ þuo þu mig + hreinan giör/ af öllum mijnum Syndū og Misgiördum/ med þijnu Heilaga Blode/ Amen.

## Gydingar af seigia sinn eigen Konung. III

Sia nu/ Saal mijn/ huad omyskūsamlegt ader Steinhiarta þessara Gydinga/ + huörsu þeirra Girnd verdur alldrei fylld. Strax sem þeir sia nu Christum so vt leiken af Pilato/ þa

hroopa þeir vpp aller saman og seigia/
Burt/burt med hañ/ Krossfestu hann.
Kong Dyrdarennar af seigia þeir/a hu-
örn aller þeirra Fedur vonudu/ + seigia/
Vier høfum ecke Kong annann enn
Keisaran.

Deu. O þu galda + darlega Þiod/ þackar
32. þu so Gude þijnum? O Drotten Jesu/
Joh 1. Þu komst til þijns Heimelis/ enn þijner
þecktu þig eige/ Þu varst ecke næsta alit-
legur nie pryddur/ Þeir sau þig/ eñ eige
var þuilijkt/ ad þeim kyñe a þig ad lijt-
Esa 53 ast. Eñ mier lijst þu hiñ fegursti medal
Psa 45 allra Mañaña Sona.

Drotten Jesu/ mijn Sæl veit/ ad
þu varst þui sendur af Gude j þennann
Act. 2 Heim/ad þu skyllder pijnast og deyia fy-
rer vorar Synder/ og allskonar Smæn
og Fyrerlitning vpp a þig taka/ so þu
Synder vorar kuittader/ Daudan og
Dan 4 Diofulen yfer vnner/ Riettlæted aptur
giæfer + þad eilijfa Lijf. Drotten miñ
Jesu/ lat mig alldrei vid þig skiliast ei-
lijflega/ Amen.

Strijds-

## Striids Meñerner endurnyudu Hadungar vid Christum. V.



Hvad hafast nu Strijdsmeñerner ad a medan? Þeir kalla saman Flocken allan/ ⁊ henda Gaman ad Christo/ Fyrst hañ sagdest Kongur vera/ þa kasta þeir yfer hñ Konglegũ Skrwda/ þo ogoodum/ sem var afgómul Purpura Kapa/ og flietta Koronu af Þyrnum/ og setia hana a hans Hófud/ ⁊ þreyngia heñe so fast ad Bloded lagade ofan epter hónũ/ og feingu hm̃ konglega Spíru j Hónd/ sem var einn Reyrleggur/ kiptu hónum jafnframe af Hende hónum/ og lómdu vm hans Hófud þar med/ þar m3 sýndu þr hónum Konglega Virding/ Bugtudu sig fyrer hónum/ heilsudu hónum/ ⁊ tilbadu hann/ lómdu hans Asianu og hræktu a hañ.

Psa 34 O Drotten Jesu/ þeir flycktust saman a mote þier/ og glóddust af þinne
Beiskre Anaud: þu varst sa fyrerlitnaste
Esa 53. fullur Eymdar og Veykleika. Þeir þig
sau hræddust þig / opnudu sinn Munn j
Psa 21. mote þier/ ⁊ hristu sijn Hófud ad þier.

Drotten miñ Lausnare/ Þui ertu orden Spott Folksins? Og Forackta Lydsins? Þess vegna Drotten/ ad þu frelsader mig fra þui eilijfa Spotte Hæde og

Skóm̃

Skóm̃ Heluijtis. Og þo ſa Ogudlege
Flockur ſpottade þig/ þa ert þu ſamt
min̄ Kongur ⁊ min̄ Drotten/ ⁊ ert þar
til fæddur j þennan̄ Heim/ ad þu vilier
min̄ Kongur ⁊ Lauſnare vera.

Drotten min̄ Jeſu/ ſem min̄a vegna
polder þa þrongun Þyrnekoronu/
Gief mier ad eg med Trun̄e a þig/ meige
ódlaſt þa Lijffins Koronu ſem fyrer
hugud er óllum þeim ſem a þig trua/og Joh 2.
þig elſka af Hiarta/ Amen.

## Vm Polenmæde Drottins/ j óllum þeſſum Hœdungum og Hórmungum. VI.

HUgleid þu hier min̄ Sal/ þa ſtoru
Polenmæde þins Drottins/ So þu 1 pet 2
hen̄ar min̄eſt/og ſiert polenmod/ ef þier Mat.
kiemur nockud til ad lijda fyrer hans 11.
Nafns ſaker/ Lat þier til hugar koma
þad hann ſagde/ Læred af mier/ Eg er
hogvær/ ⁊ af Hiarta Lijtelatur.

Þar fyrer ſkalltu vera til reidu/ allra
Handa Motgang/ eirnen Daudan ſial
fan/ hans vegna ad lijda. O fsækie nockur
þig / eda hreke / þa ſeigdu af Hiarta/ 1 Cor
Jordena a Drotten/ og allt huad j Hen- 10.

ne er / ham a Heims kringluna og hvad
Psa 24 þar i bygger. Og vilie nockur saga þig i
sundur / þa hefur þu Spamañsins Esa-
Jon. 1 ie Dæme. Vilie nockur dreckia þier / þa
hyxa þu vm Jonã Spamañ. Sie þier i
Elld kastad / þa þeink vm þa þria Meñ
Dan 3. i Elldsofnenum i Babilon. Verde þier
fyrer olm Dyr kastad / þa hyxa vm Da-
niel Spamañ / sem kastad var i Leona
Grofena. Vilie nockur gryta þig i hel /
Act 7. hyxa til þeſſ fyrsta Pijslarvots sem var
S. Stephanus. Sie fra þier teked allt
þad þu att / þa hyxa med þier sem S.
Job 1. Job seiger / Naken kom eg af Modur
lijfe / naken mun eg i burt fara. Lijder
þu nockurn Oriett / gief þ i Guds Hend-
ur / hñ kañ þeſſ hefna. Faer þu Skada
eda Tion / gief þad i Guds Hendur / hñ
kañ þad bæta. Berer þu Hrygd + Sorg
gief þad i Guds Hendur / hañ mun þiñ
Huggare og Grædare vera. Eiger þu
Daudan ad lijda / gief þad i Guds Hen-
dur / hñ mun þitt eilijfa Lijf vera.

Veittu mier / Drotten miñ Jesu / slij-
ka christeliga Þolinmæde / til allra þ-
ra Hluta sem mig meiga astrijda / ad eg
lijde og vmbære alla Hlute i þijnu Naf-
ne.

ne. Lat mig ei girnast Mönnonum ad
þocknast / Þui ef þad verdur / þa er eg Gal 1.
ecke framar þinn Þion.

Drottenn avijtar Pilatum / vegna VII.
hans Mictnadar.

Egar Pilatus hrosade þui / ad hann hafde Magt ad giefa Jesum lausan / og ad Krossfesta hann / þa ansade hönum Jesus / seigande / Þu hefder engua Magt yfer mier / vare þier hun ecke hier ofan ad giefen.

Ja ad sönnu / mijn Saal / Eckert gie-
tur Madurenn teked af sier til / nema þad Joh 3.
sie giefed hinn af Himnenum / Ach / huad
vill þa þesse auma Molld og Aska mz Syr 10
sinn Hroka? Ecke er hun annad / enn and-
styggelegur slæmur Saur / lijka a medan
vid Lijfed lafer? Þui hefur Drotten a-
vallt Drambsseme Manna lægkad / og henne
vm koll kastad. Gud hefr hrunded Voll- Luc 2.
dugum af Stole / enn vpp hafed Lijtela- 1 Pet 5
ta / þui hann steindur a mot Drambsatum /
enn Lijtelatum giefur hann Naad.

Hialp mier Drotten Jesu / ad ganga
og lifa sem þu mier skipad hefur / og i Eph 4.
þui Kalle og þeirre Stiett ad þiona sinn

þu hefur mier til sett. Eg veit ad søn̄u
Drottenn/ ad Madurenn hefur ecke Rad a
Jer 10 sijnum Giørdum eda Fram̄ferde/ Send
mier. þui þijna Speke af Himnum/ og
af þijnu Velldis sæte send mier hana/
Sap 9 Ad hun hia mier sie + m3 mier arfide/ so
eg vite + giøre huad þier lijkar/ Lattu
mig avallt/Drotten Jesu/goodū Rads
Pro 19 um hlyda/og amin̄ingar þiggia/ so ad
eg byggnest.

## VIII. Dauda Vrskurdurenn yfer Christo.

AThuga þad eirnen/ mijn Sal/ huørnenn Pilatus fellde Dom yfer þin̄ Lausnara/ so ad hn̄ Lijfletest/ epter þui sin̄ Gydingarner hotudu hm̄/ seigande/ Later þu þennan̄ lausan/þa ert þu ecke Keisarans Vinur/ þa vard Pilatus hræddur enn meir vm sig/ fyrer Kiesarans Reide/ ecke fyrer Guds Reide þar fyrer seiger hn̄ Domenn vpp/ + dæmer ad Gydinganna Villd skie skule: Og þo han̄ þuoe Hendurnar og segdest saklaus j hn̄s Blode/ þa gaf hn̄ samt þan̄ saklausa Jesum j þeirra Valld/+ dæmde ad þeirra Vilie skyllde fram̄gang hafa/

fa / ad hañ være Krossfestur.

Huad ranglega er Drotten sa riettlæte Domare dæmdur? Sem koma mun ad dæma Lifendur + Dauda.

O þu ranglæte Domare Pilate / þui dæmer þu so rangañ Dom yfer mijnū Drottne? Huór Jllgiórd var vitnisfóst vppa miñ Lausnara? Huada Vitne komu fram̃ a mote hónū? Voru þeir ecke hans Fiandmenn? Jæ / þeir sómu voru þar Sakaraberar og Vitnen. Er ecke plagsidur ad giefa Þm Sókudu Frest / so þeir vtuegie sier sijna Afbótun? Eñ miñ Lausnare var vm Midnætte fangen / og til næsta Morguns hæddur spottadur / + med Hrakum spyttur / og ad Morne snemm̃a Hwdstryktur / og iafnskiott til Dauda dæmdur / + til Aftókustadarens leiddur. Þu visser ædur / ad Gydingar hófdu af Hatre fangad hañ og ofursellt / Þui dæmd þu hñ til Dauda mote þiñe eigen Samuisku? Þu þuoder þijnar Hendur / eñ huór vill þuo þad saklausa Blod af þiñe Samuisku?

Eñ gledst þu hier vid / mijn Sæl / þui med þessum hætte ertu fra þeim stranga Dome frials orden og kuitt. Joh 3.

Þei

Þui huör a Sonenn truer/ hann mun ecke dæmdur verda. Nu mattu avallt med (Ebr 5.) goodu Giede koma fyrer Guds Nadarstol/ so þu hans Myskun ödlest ꝛ Lijkn sinner nær þier aliggur.

O þu allra sætaste Herra Jesu/ sinn af þeim heidna Lands Domara varst fordæmdur/ Lat mig fyrer þessa þijna Elsku ꝛ adra/ æfinlega þier þacker giöra/ Og þa þu kiemur ad dæma Lifendur og Dauda/ þa gack ecke j Dom vid þinn Þræl/ og minstu ecke a mijnar Synder/ Helldur vnn og gief mier af þinne Nad/ ad eg med öllum Utuöldum meige setiast ad þui Rijke/ sem þu hefr oss tilbwed fra Upphafe Veralldarinnar.

# Sextande Capitule.

## Um Utfør Lausnarans til Aftøkustadarins/ Og huad þar fleira vid bar.

Trijdsmennerner toku þa Jesum/ færdu hann af þeim Kyrtle/ ꝛ j sijn eigen Klæde/ leiddu hann vt til Krossfestingar/ og lietu



letu hañ sialfan bera sinn Kross. Og
sem þeir komu vt/ fundu þeir eiñ Mañ
sem þar fram hia gieck/er hiet Simon

af Syrenia/huør ed kom af Mørkefie/ z huør ed var Fader Alexandri z Rufi/ hønum naudgudu þeir til ad bera hans Kroß/ og løgdu Krossen hønum a Herdar/ ad hañ bære hañ epter Jesu.

Eñ hønum fylgde epter stor Fiølde Folks og Kueña/sem ed veinudu z grietu yferhønum. Eñ Jesus snere sier vid þeim/ z sagde/Þier Dætur af Jerusalem/grated ecke yfer mier/Grated helldur yfer ydur sialfum og ydar Nidium. Þui siæed/sa Tijme mun koma/a huerium þier munud seigia/ Sælar eru Obyria/z þeir Kuider sem eige hafa fætt/ og þau Brioſt sem eige hafa miolkaſt/ Þa munu þeir taka til ad seigia vid Fiøllen/Falled yfer oss/og vid Halsana hylied oss/ Þui ef þeir giøra slijkt vid þ græna Tried/ Huad munu þeir giøra þa vid þad Visna ?

## Eintaled.

# Vtleidsla Christi til Kualastadar-ins/ er vor Innleidsla j Himnaryke. I.

SJea þar mijn Sæl/ huørnen þinn Esa 53
Lausnare var tekenn af Lande þeirra
Lifondu. Þuiad/ þegar siñ Pilatus ha-
fde Domen vpp sagt/ þa toku Strijds-
meñerner Jesum/ og leiddu hann vt til
Krossfestingareñar/ so þad Lógmalsins
Fyrermyndan framkuæme j þssu. Huer-
ra Fornar Blod sem Kieñemaña Hó f-
dingenn førde jnn j þad allra Helgasta
fyrer Syndernar / hennar Kroppur var Ebr 13.
brenndur fyrer vtan Herbudernar. So og
einnen Jesus/ vppa þad ad hñ med sijnu
Blode Helgade sitt Folk/ þa leid hañ sig
fyrer vtan Borgarhliden pijna.

Drotten Jesu/ miñ Lausnare/ Eg giore þier þacker af mijnu Hiartans gruñe/ fyrer þad ad þu villder slijka Sman fyrer mig lijda/ & liest þig vt af þiñe Eign. til Kualastadarins vt fœra/ & siñ añañ Spillvirkia vtleika/ Þijn þesse Vtganga hun er mijn Jñganga j þad eilijfa Lijf.

Eg bid þig Drotten miñ Jesu/ sem

med-

med storre Skadung og Sman/ varst vt vr þessare Jardneskn Jerusalem leiddur/ Leid þu mig jñ j eilijfa Glede Æru ⁊ Vegsemd þrar Himneskn Jerusalem.

Hugleid hier/ mijn Sal/ Drotten hefur þetta til Epterdæmis læted hier/ ad þu skuler lijka vtganga fra öllū þui sem forackt & hans Nafn/og hans Heilaga Bod med Fotum troda. Þui skalltu hafa þig til vegar/ skilia vid þessa Heims Synder/og Drottne fylgia/ Huar Meñ vilia ecke þuī Lausnara hafa/þar skalltu ei stadar nema/ Helldur stappa Dupt þeirra af þijnum Footum. Eg seige/þu skuler hrista Syndareñar Dupt af þijnu Hiarta/ med riettre Jdran/ so vid komust vt til Drottins af Herbudonum þessa Heims/⁊ berum so Fyrerlitningena med Drottne. Vier vitum sañlega/ ad hier er eingen stadföst Vera/ og vid leitum þa okomna sem þo a ad koma. Þui öll Veröllden er forspillt/⁊ forgeingur med allre siñe Vellyst/ Gack þar fyrer vt af heñe/Sal mijn/ so þier blotnest eckert af hennar Syndum/edur mæter heñar Plagum. Þui heñar Synder na til Himnaña ⁊ Gud gaer ad heñ-

ar

ar ogudlegleika: Megtugur er Gud Drotten sem hana mun dæma.

Gief Nad Drotten Jesu/ad eg lýkest ecke þessare Veróllðu / ꝛ mig ei saurge med hennar Syndum / Lat mig æfinlega þier fylgia/ vid þig loda / þier þiona/ Læt mig einskis oska / einskis leita / eckert girnast nema þig minn Lausnare/ vppa pad ad eg afrække hid Stundlega/ enn elske ꝛ astunde þ himneska / Amen.

## Drotten vard sialfur ad bera sinn þunga Kross a Herdum sier/ vt til Kualastadarins. II.

Miin Sæl/ Huørsu litla vægd hafa þr viliad sýna þijnu Lausnara. Þui þa hann var med óllu vppgiefenn og Mattlaus/ þar hann var þa lidlanga Nott lamen og strýktur/ hradur og hraktur/ po samt pa hneptu þeir hann þunga Kross hónum a Herdar/a huórium hann ætte ad deyia. Tueir Spillvirkiar voru med hónum vtleidder ad Krossfestast m3 hónum. Enn ei lesum vier skrifad/ ad þr hafe sialfer sijna Krossa Bored/ Mijn Lausnare hann alleina hlaut sinn Kross sialfur ad bera.

O þu allra þolenmodaste Herra Jesu/Huad ovmræðeleg var þijn Hlydne.
Gen 22 Þu varst sa riette Jsaac sem sialfur bar Elldeniden/ þa hönum atte ad offra. Eñ þu varst so þreyttur og Mattlaus orden/ ad þier veitte ecke par af ad ganga sialfum/ þo giekstu samt vnder þa þungu Krossins Byrde.

Eñ so hefur þu Ok vorrar Byrde (þad er Lögmaled) + vort Synda Hrijs
Esa 9. (sem var Dauden) a þig teked/+ Straff þess sem ad oss so freklega þiade/ þad er/Lögmalsins Bölvan yfer Syndenne/ þui Krossen þyder Syndena/ og allt þ Syndaña vegna a oss legst/ þad allt hefur þu þolenmodlega fyrer oss bored/ þu saklausa Guds Lamb/ sem barst allar Heimsins Synder. Vort Straff lä a
Esa 53. þier/ so vier værum med Fride/ og vorar Sæler j eilijfre Huggun. Myskuna þu mier Drotten Jesu/og gief mier þiñ Frid/ Amen.

## III. Vm Syrlenska Simon sem Krossen Christi vard ad bera.

HA Kualararner sau ad Lausnaren munde verda til leingdar ofueykur vnder Krossbyrdeñe/ ottudust þeir

þiñ

hañ munde slockna vt af / fyrr enn þeir 1 Cor.
kiæmust med hañ til Aftöku stadarins / 10.
Þui gripu þeir einn Vegfarande Mann
sem kom Vijfande ad / Simon ad Nafs-
ne / og hræddu og neyddu hñ til ad Bera
Krossen epter Jesu.

Miin Sal / huad Trufastur er vor Gud / sem eirnen synest j þessu / ad sijnum Syne sem var orden Bölvan fyrer oss / lagde hañ ei meir vppa eñ hañ gat vnder staded. Og sem hañ var nu med aullu þreyttur vnder þeim þunga Krosse / sende Gud hönum þa Hialp sem mz hönũ Bære. Þess vegna / miin Sal / Nær þu j Heimenũ lijdur Angist + Neyd / þa kalla þu til Guds / hañ mun þier lijkna / og þitt Angur bærelegt giöra. Hann mun senda þier einhuörn goodan Simon sem þig styrke med Raad eda Daad / Ja / hañ sialfur vill sa Simon vera / + þier hialpa / Þui hañ er sa sem Mæddum Krapt Esa 40
eykur / + styrker sem duger þa Vanmættugu. Þo vnger og oluner sieu / þa þreytast þeir / Eñ þeir sem Drottne treysta fa nyan Styrk / so þeir meige vega sig vpp mz Vængiũ sem Aurnen / Ad þeir hlaupe og giefist ecke vpp / Ad þeir gange og

1 Cor 12 þreyteſt ecke/ Þuiad Kraptur Drottins er mættugur j þeim Veyku.

O Drotten Jeſu/ lattu allar mijnar Freiſtingar + min̄ Motgang ſo endaſt/ad eg af þijnum Nadar ſtyrk fae vel ſtadeſt/Amen.

## IIII. Aller Chriſtner verda ad bera Kroſſen med Chriſto.

TAk þig vpp Sal mijn/og lær nu ad bera Kroſſen epter Herranum Chriſto/ ſem þeſſe Simon hűm Syrlenſke giórde. O huórſu gott + merkelegt er þad/hans Kroſſ ad bera? Oh huad ſtora Virding og Mæte fieck ſa Simon þan̄ Dag/ þa hn̄ fieck ad hialpa til/ad bera wt Kroſſen Chriſti?

Drotten Jeſu/ Sæll er ſa/ſem þier epterfylger/han̄ geingur ecke j Myrkrunum/helldur ſier hann þad Lijfſins Lios fyrer ſier. En̄ ſa þier vill fylgia / hlytur
Luc 19 fyrſt ad afneita ſialfum ſier/+ Daglega ſijn Kroſſ vpp a ſig ad taka/og fylgia þier epter.

Sia hier mijn Sal/ Hafe Drotten ecke ſkam̄aſt ſijn fyrer þig a Kroſſenum ad hanga/ þa ſkalltu ecke helldur ſkam̄-

aſt

ast þyn med þeirre Heilögu Jomfru
Maria vnder Krossenū ad standa. Þui
huör sin Kross ecke a sig tekur/ + fylger Mat.
hönum epter/ sa er hans ecke verdugur.
Ja / huör sinn Kross ecke ber og fylger 10
hönum/ sa kañ ei hans Lęresueiñ ad ve-
ra. Þui tak hans Ok vppa þynar Herd Luc 14.
ar/ myn Sal/ huört ad er sętt/ + hans Mat.
Byrde/ huör ad er Sęluñe liett bær' 11.

Mögla ecke j mote Drottne sem
margur giörer/ Huxa helldur ad sier kię Apo 3.
rā agar Drotten/ + tekur til a sijnu Hw- Eze 9.
se. Drotten miñ Jesu/ fyrr eñ þu lijte- Psa 119
lęckader mig villtest eg/ enn nu fylge eg
þynu Orde/ Þui var mier þiñ Age fyr-
er goodu/ so ad eg feinge ad lęra þyna Jer 25
Doma. Og þui hrosar sier mijn Sal af
Hörmunguñe/ þui hun hefur Þolenmę- Rom 5.
de/ eñ Þolenmęde Reynslu/ eñ Reynslan
Von/ eñ Vonen lętur oss ecke til Skaiñ-
ar verda.

Hialpa mier Drotten minn Lausn-
are/ so ad eg ei lijde eda straffest sem añ-
ar Mordinge/ Þiofur eda Illuirke/ eda
sa sem til añarlegs Embęttes grypur/ 1 Pet 4
Helldur ef so skier/ ad eg eige hier nöck-
ud ad lijda epter þynum Blessada Vil-

ia/ og litla stund Sorg og Mædu ad bera/eda adrar Freistingar/ þa gef Dr⸗
1 Pet. otten/ ad eg hier mijna Sal bifale/
11. 4. mijnũ trufasta Skapara/ til allra goo⸗
dra Verka. Og þo þijn Hialp kuñe vnd an ad dragast/ þa giör mig stödugan j
Hab 2. Voneñe/ Þui þijn Hialp kiemur vm sijd⸗
er og bregst ecke/ Amen.

## V. Su seinasta Predikun Christi sem hñ hafde a Leideñe vt ad Aptökustadnum.

Sal mijn/hlyd þeirre snørpu Predikun/ sem Drotten Jesus hafde fyrer þeim Kuiñum sem hañ grietu/ og sinne Borg og Fosturlande liet epter j sijna Miñing. Huad aluarlega hñ aminte þa ad lata sijna Pijnu sier til Hiarta ganga/ og ad giöra Jdrã ꝛ Yfeyboot/ ꝛ optt sagde þeim fyrer/ huada Straffe hienge yfer þeirra Höfde.

Ja/ Mijn Sal/ þad var Jerusalem sem Drotten hafde vtualed/ þad var
Zach 3. Zion sem Drotten hafde sier kiöred til
Psa 131 Heimelis/ ad hañ þar bygge. Himnana ꝛ alla Himnaña Himna / ꝛ so Jörd⸗
Deu 10 ina og allt þar iñe er/ þad atte Drott⸗
en

# ECCE HOMO




Þesse Figura a ad standa Fol. 133. Þar ed Pilatus leider Je-
sum vt/ Hudstryktan/ Þyrne kryndan/ Alblodugan/ og seiger til
Gydinga/ Ecce Homo/ Siaed þessa Manneskiu.

en þinn Gud / og allt er þad hönum j
Hende / Eñ samt þocknudust so Drottne
Gydinga Forfedur fram̃ yfer adra / ad
hann elskade þa / og þeirra Sæde epter
þa vtvalde hañ fram̃ yfer allar Þioder /
⁊ sende þeim siñ eingietna Son / sem þa
Mat. 1. hiolpna gióra skylde af óllū Ꝥra Syndū

Oh Herra Gud / Huad opt villde hañ
Mat. hafa safnad þeim saman / sem Hænan
23. safnar sijnum Vngum vnder sijna Væn=
ge ? enn þeir hafa ecke viliad / Helld=
ur toku þeir siñ eigen Herra til fanga /
dæmdu hañ til Dauda / selldu hñ heid=
num Mönnum j Hendur / so hñ spottad=
ur / hæddur / smædr / Hudstryktur ⁊ Lijf=
laten yrde.

Þar fyrer / Sæl mijn / vard Drotten
Mat. þiñ Gud reidur / sende siñ Her vt / og liet
23. fyrerfara þeim Mordingium / og þeirra
Stad vpp brena. Hañ sende nóckurs kon
Deut. ar fiærlæga Þiod yfer þa / fra enda Ver=
28. alldareñar / lijka siñ Arnn flyge / huórrar
Mæl þeir skildu ecke. Ja ad sóñu eina
grim̃a Þiod / huór ei foor epter Mann=
uirdingu / og ei vægde þeim Gómlu nie
Vngu. Þetta Folk krepte so ad Gyding=
um j óllū þeirra Borgarhlidum / þang=
ad

